
Þorsteinn Þ.
Þorsteinsson:
Ljóða-
þættir.

THE
# A.B.OLSON COLLECTION



PRESENTED TO
THE
UNIVERSITY OF MANITOBA
1936

75 eh.

*Arnljotur B. Olson*

# ÞÆTTIR

# ÞÆTTIR



Ljóð

eftir

**Þorstein Þ. Þorsteinsson**

*Arnljótur B. Olson*

WINNIPEG.
Hecla Press, Limited.
1918.

9.

*Árnljótur B. Olson*

# EFNI:

## EFNI.

*Arnljótur B. Olson*

# Vorsöngur

Sunnan úr ársölum eyglóar vorboðinn flýgur.
Yljandi, hækkandi röðull um bláhiminn stígur.
Baðast í vermilaug fagrahvels fjörvakin jörðin.
Frójangar jurta og meiða úr læðingi brjótast.
Gullroðnar leika sér bárur um blikandi fjörðinn.
Blærinn og fjólan í ástsælum lífsdraumi njótast.
Vorgyðjan ljúfa um loftið og foldina og sæinn,
lífinu heilsar og býður því sólríkan daginn.

Opnið nú gluggana!— Látið þið loftið inn streyma—
lífgandi, hressandi blæ hinna vorþrungnu geima!
Blæjurnar frá, svo að blessandi guðsólin skíni
blómunum fölu, sem eiga í kofunum heima!
Opnið nú hurðir svo dauðaloft húsanna dvíni!
Drepandi molluna og svæluna hrekið á klakann!
Látið ei draugana lengur um híbýlin sveima!—
Löng var oss nóttin, og þreytandi skammdegisvakan!

Þenjið út brjóstin og lærið þið lífið að þekkja,
Lítið upp sjálfir frá klafa og þrælsoki hlekkja.
Inni er myrkrið og andleg og líkamleg megurð.
Úti er ljósið með víðsýni og himneska fegurð.
Inni er dauðinn í höllum og kofum og kirkjum.
Kristur er flúinn úr löggiltum afturhalds virkjum.
Þreytti hann dimman og öfug og misskilin menning:
melétin, brunnin og rangsnúin aldanna kenning.

II.

Nú er hann Kristur þinn kominn til blómanna ungu.
Kominn með ljósengla himneskan, dýrðlegan skara.
Syngur um frelsið til lýðsins á lifandi tungu:
"Lögmál það heyr þú, ó, mannkind! sem eilíft skal vara:
Guð þinn er kraftur, sem gróðrinum stjórnar og eykur.
Guðshúsið—kirkjan—er jörðin og sólhvelið bjarta.
Sálmana fuglarnir syngja, en vorblærinn leikur.
Sönnustu ræðuna finnurðu í vakandi hjarta.

"Skoðið þið akursins liljugrös, lágir og háir,
—lærið þið spekina eilífu, stórir og smáir.—
Fegurri en Salómons gulldjásn og skrúði þau skína.
Skrýddu eins dýrðlega húmbeygðu sálina þína.
Sannlega, sannlega segi eg þér táldregni lýður:
syndin er dimman, sem höggorms í myndinni skríður.
Vorið og ljósið er sælunnar engillinn sanni.
Sjáðu hann, þektu hann, trúðu á hann—vertu að manni.

"Vei yður, grimmlynda valdstjórn, með kúgun og helsi!
Vei yður, Jehóva þjónar, sem ofsækið frelsi!
Eitruðu nöðrur! þér höggormar! Hvar eru verkin?
Heimurinn blóðstorkinn sýnir þér kærleikans merkin.
Sólskini vorsins í vetrarins myrkur þér breytið.
Volaða smáið þér, svíkið og fláið og reitið.
Finst yður hamingja hörmungar bræðranna að þyngja—
heimskuna í lögum og kristni að stækka og yngja—?"

III.

Sólarguð, lífga oss, vek oss af vetrarins drunga!
Vorguð, í faðminn þinn tak þú oss gamla og unga!
Lífsguð, ó, sýn oss hið ljúfasta, fegursta, æðsta!
Látið oss þekkja og skilja hið dýpsta og hæsta!—
Verði oss himininn frelsisins fyrirmynd stærsta.
Fegurð og yndissjón veiti oss blómdísin glæsta.
Hugsun vor djúp eins og hafið, með eldvilja nýjum
Hjörtun eins vonglöð og söngfugl á ármorgni nýjum.

Lífið er vor, sem að vekur til starfa og hvetur;
vor, sem að breytist í sumar, í haust og í vetur.
Vorið er líf, sem að öllum eitt aðalmark setur:
áfram og hærra, að þekkja og skilja alt betur. — —
Ef að þú lærir hið volduga vormál að skilja,
vernd er það eilíf mót dimmu og næðingi bylja.
Þá áttu í sál þinni himneska vordýrð og vilja,
veturinn kemur þá blíður og fagur sem lilja.

# Helgimyndin

Í djúpkendum hjarta míns ættjörðin á,
þá æskunnar helgustu minning,
sem draumar í lotningardjúpinu sjá,
en dagarnir snerta ei í kynning.

Og þar mér í draumi, er dag skyggir kveld,
rís dýrðin í blámyrkri nætur,
við voróttuhvörfin og ármorguns eld,
þá alt rís í ljósi á fætur.

Mér veginn ei tefur hið volduga haf,
né vestlægir skuggar frá Njólu.
Á meðan eg hérna veit ekkert mér af,
þar upprís eg glaður mót sólu.

Hér speglast mér myndin í morgunsins gljá,
sem minnið í sálinni geymir.
Í frumlínum hennar býr frumkraftur sá,
sem frumeðli lífs síns ei gleymir.

Um fjörðinn eg sigli og klettana klíf
og klifra upp tindana háu.
Á árroðans vængjum með sólálfum svíf
og syng út í heiðuna bláu.

Og vormilt og hressandi heiðloftið bjart
í hringöldum leikur sér smáum
við fjallahringskonunga skínandi skart
—að skikkjunum rauðum og bláum.

Á vörðuna uppi á Sjónhól eg sezt
og sé yfir dalina mína.
Í vestrinu Heljardalsheiðin þar sést,
sem hnjúkar í blámanum skína.

Í vestrinu! — — þangað, sem leiðin var lögð
í landrými íslenzkrar heljar.
Já, þaðan sem grænlenzka sagan mun sögð
um sandorpnar norðurhafs skeljar.

En það voru umbrot hins ókomna dags,
sem ei hafði sólina litið.—
Sem skildi ei minjar né muni síns hags
og misti svo ástina og vitið.

En allir, vor móðir, sem unna þér mest,
þótt oftlega hálfir þeir sýnist,
þeir gefa þér alt sem er göfgast og bezt,
unz gröfinni nafn þeirra týnist.

Og hinna' er sú einasta sökin í sál:
hvern sjálfan að elska sem bróður!
En—var það ei, heimamenn! viðtekið mál
að vera við duggarann góður? — —

Ef gæti eg kveðið með kraftinum þeim,
sem kostaði óskina mína,
þá kvæði eg óðara helminginn heim
af hjörðinni í dalina þína.

En því ekki að flytja allan hópinn í hlað
frá helspám sem gjalla við eyra?
Nei.—Holdsveiki aðeins af hálfum sér kvað
hann Hallgrímur.—Freistaði ei meira.— —

En er þetta myndin? Já. Ei er hér neitt,
sem útsýni hennar fær grandað,
fyrst Vestrið og Heljardalsheiði sem eitt
í hug mér og fjarsýn er blandað.

Það birtist sem hilling því baksviði á,
er bláhvolf í mistrinu vefur: —
Sem undrin í skýjunum Angeló hjá,
er áhrif því nærlæga gefur.

Þar sé eg hinn gleymda og gráhærða son,
með glöpin og reynsluna og árin,
í förinni austur mót framtíðarvon,
að finna aftur gæfuna og—tárin. — — —

Eg lít yfir sveitina Sjónhóli frá
og sé hvernig litirnir skiftast.
Frá módökkum lynghálsum—melunum grá
þeir mjallhvítu tindarnir lyftast.

Og örnefnin veljast þeim æfintýrs blæ,
sem útsýnið dýpkar og hækkar,
frá afdalabotnum og yzt fram á sæ
og umhverfið tengir og stækkar.

Og trú mín á landið af ljósinu full,
hér lítur með vissunnar sjónum
þann heimsveldiskraft og það hamingjugull,
sem hvarvetna liggur und skónum.— —

Og eyjasund skerast frá ánni upp í fjöll,
sem einstaka þveráin grefur.
En lækir að mestu eiga landamerki öll
—frá landnámstíð staðið það hefur.

En neðan frá bökkum á bugðóttri á
og bláhvítum, vatnsorfnum eirum,
við hlíðarrót bæina og húsin má sjá
á hólum og brekkum og geirum.

Hvert gullofna túnið með gróandans blæ,
er guðspjall, sem þúsund ár skráðu.
—Og áframhald lífs, er að eignast þau fræ,
sem aldirnar liðnu ei náðu.

Hver glitbreiða handmörk síns búanda ber—
hvert býlið mér fljótlega sýnir:
hvert tillagið, getan og arfurinn er
og andinn, sem kraftana brýnir.

En fegra en alt það, sem auga mitt sér
í útsýn og góðveðurstómi,
mér kunnugum æfisögn bæjanna ber
og blikar sem æfintýrs ljómi.

Þar baráttan háð var frá kyni til kyns
og kulda og hungri oft varist,
en eldurinn náði frá vini til vins
og vitið ei enn hefir farist.

Já, mannvitið íslenzka og alúðin sú,
sem undir við samfund hvern hillir,
er Íslendingssaga og Íslendingstrú
—sá andi sem bæina fyllir.

Hver baðstofa er kongsríki' hins andlega elds,
og Ísland er norræna sálin,
sem gullóf í morgunkjól geisla þess kvelds,
sem geymdi flest eilífðarmálin.

Og þar býr mín óskifta eilífðartrú,
sem altaf skín huganum mínum.
Hún deyr ei í fjallið.—Hún byggir sér brú
úr björtustu lífsvonum þínum.

Það guðsríki fegrast mér dag eftir dag,
og dimmustu nætur í vestri,
eg trúglaður hugsa á hækkandi slag.
frá hörpunni Norðursins bestri.

Þar blundar sá draumur, sem eilífðin á
í inndæla vöku að breyta.
En von mín hlaut eigi frá vissu þá spá,
hvað vormorgunn sá skildi heita.

---

# Á fjöllum

(Kveðið vestur á Kyrrahafsströnd).

---

## I.

**Hve fagurt er hérna á fjöllunum þeim,
sem fagurgrænn skógurinn klæðir!
Sér smáfuglar leika um ljósbláan geim,
og léttur berst söngur um hæðir.
Í armlögum glóeyjar falin er fold,
í frjóskrúði vorsins rís glitrandi mold.**

**Sem sofandi óvitinn brosi við brjóst,
svo blundar nú góðviðrið hlýja.
Og víðsýni heiðblámans hugrúmt og ljóst
á heimana bendir mér nýja.
Öll náttúran tengist sem hendi fest hönd
um heima og geima, um sædjúp og lönd.**

**Alt lifandi faðmast við elskunnar arn,
sem eilífðin stund þá, sem líður,
og skríkir af ánægju ástglatt sem barn,
þá æskufjör hjartanu sýður,
Í ljós-sporin feta sig lífgrösin smá,
—svo langar oss ungbörnin vorið að sjá.**

Í austrinu Klettafjöll hefja sig há,
sem himinsins andi vor leiti,
og jöklarnir mynnast við móðuna blá,
sem munblíðan kossinn hún veiti.
Og elfin sem haddur frá höfði er greidd
—frá hásæti konungs að fótaskör leidd.

Í vestrinu blasir mót vogskorin strönd,
með víkum og sundum og flóum,
sem staðviðrið leggur í ládeyðu-bönd
og loga í röðulsins sjóum.
Og hafið og loftið,. í hillingar breitt,
að hvort öðru falla og verða sem eitt.

Í norðri og suðri er búenda ból
með blómlegum aldinareitum.—
I skógrjóðrum fjölskyldur finna sér skjól
og frumskóginn gjöra að sveitum. —
Ef vorið og mannlífið héldust í hönd,
þá hlýnuðu óðum vor nútíðarlönd.

II.

Við fjallanna rót er hin fjölmenna borg
í feigð-hjúpi svælunnar vafin.
Og hjarta mitt glúpnar af sárustu sorg,
að sjá þarna mannlífin grafin. —
Hún brennir í sál mína beiskjunnar kjör,
sem bölglott á helkaldri fjandmannsins vör.

Sem brennimerkt sakleysi bitrustu smán,
er borgin á náttúru löndum. —
Og turnarnir hefja sig hátt yfir Rán,
sem hræða á marflötum ströndum.
—Með flaggstöngum háum:—vor kúgun og kvöl
—með krossunum lágum:—vort eilífa böl.

Þitt volduga musteri, höll þín og hof,
er hvítfágað saklausra blóði,
og duft yrði skraut þitt og dómur þitt lof,
ef dæmdi sá réttvísi og góði.—
Þitt brauð er úr líkömum bræðranna smá,
—þinn brunnur er társtraumur ekkjunum frá.

Því hér, — þar sem gull-kapp og auðlegðin ein
er æðsti og sannasti réttur, —
ei gilda hin sárbitru sannleikans kvein,
ef sjóðurinn verður of léttur. —
Á himni og jörðu — í helvíti ei —
er hjálpin þér bönnuð — sagt þúsundfalt nei.

Þú auðvald ert bölvun, sem blekkir vort líf
og banvæna tæringu elur,
því gull þitt er lastanna' og lyginnar hlíf,
sem lausnara mannkynsins selur
í kvalara hendur, á krossinn, á bál,
og kúgar í fangelsum drenglynda sál.

Þú kviksetur frelsið og kallar á stjórn
og kirkju í gröfina' að moka. —
Á altari þínu er alþýðan fórn,
sem augunum reynir að loka,
svo sjái hún ekki sitt svívirta barn,
sem sendir þú nöktu á spillingar-hjarn.

En vilji svo einhverir andmæla því,
sem auðlögin kóng-hollu bjóða,
þá verða þeir pyntaðir varðhaldi í
sem váféndur "kristinna" þjóða,
unz gálginn að síðustu gefur þeim líkn,
þá geta þeir skilið að—þögnin er sýkn.

Hér sjáum vér fjöldann—þá "myrkranna makt",
—þann markaða sauðskepnu grúa —
sem hornin og ullina "inn hefir lagt"
og auðsveipur reynir að trúa:
að það sé samt drottinn, sem þerrar öll tár,
er þrælkunin endar og lykjast öll sár.

—Vér skiljum ei Krist og hans kærleikans mál
því kirkjan ei jafnrétti skeytir.
Og lýðurinn þrælbundni líkam' og sál
og land sitt í okarann reitir.
En stjórnin frá hásæti styður vort böl. —
Hún stofnsetur örbirgð og framleiðir kvöl.

Ó, lýður, ó lýður! Sjá ljós brýzt þinn stig!
Hví lýsturðu' ei fjötrana í mola!
En — til hvers er annars að tala við þig,
þú trúgjarna, margþjáða rola? —
Eg held næstum, sjálfur þú bindir þín bönd,
og blundir hvað sætast með járnin á hönd.

Og ef að þú vaknar, þá verðurðu ær,
og veltir þér hamslaus í blóði.
Og blindni þín feigð-sprota frelsinu ljær,
unz fellir þig stormurinn óði. —
því meðan að ei verður andi þinn frjáls,
að eilífu berðu þér klafann um háls.

Guð aumkvi þig borg, þegar ár-sunna skín
á inndælum vorríkum dögum! —
þitt glottandi skraut móti skelfing og pín,
er skuggsjá af alþjóðar högum. —
þú grefur þitt mannlíf í gulli og aur,
þá guðs-röðull blessar hinn vesæla maur.

III.

Lát guð — ef að heyrir þú barnanna bón —
ei böl þetta landið mitt henda. —
Lát heilaga gifta! "ei farsældar Frón"
í fépúkans stálgreipum lenda. —
Lát mannvit og kærleika haldast í hönd,
frá hafi til fjalla, sem sólskinsins bönd.

Leið frelsið, sem suðursins lofthlýja straum
um landið á blessandi vori.
Lát sannreyndan verða hvern sælunnar draum,
með sólskini' í byrjandans spori.
Lát elskunnar rétt verða ríkjandi lög,
sem reisi við fallandi dóttur og mög.

IV.

Ó, fagurt er núna á fjöllunum þeim,
sem frelsið og náttúran skrýðir!
En — brautin mín liggur í borgina heim
sem bautasteinn mannanna prýðir —
og þar kemur vordísin — verður strax bleik.
— Hún visnar á grjóti og kafnar í reyk.

---

# Ókomið vor

Eins og ókomið vor
flytur undan sér þor
inn í anda hvers lifandi manns;
—fegrar huganum framaraun hans
sem var fésmátt um gjöld—:
færist ilmurinn nær,
og hinn angandi blær
fyllir ármorgni loftdjúp hvers ranns,
býr til Eden úr eyðimörk lands
síðsta ófriðar kvöld.
Flyzt frá hörmunga dal,
berst frá hálf-gleymdum val,
þar sem Hýasintu'-ungblómið vex
(þar sem sektin bauð sýknu til legs
bak við sjónhvarfa tjöld)
upp frá dropunum þeim
sem vorn döggvuðu heim
blóði-drengjanna,'-er fórnað var Rex.
—Það sem sekum var sannað til vegs,
skulu saklausum völd.

Það er lífinu lög,
eigi ljúf eða hög,
heldur lífseðlið náttúru grimt,

hversu annars sem eðlið er fimt
hærra, áfram að ná:
Ef vorn farsældar þátt—
allan frelsisins mátt
viltu fullkomna', og djarft sé' að ymt.
Eða leiða þar ljós sem er dimt
inn í lögvaldsins krá.
Alt þitt líf, alt þitt ljós,
alt þitt leysingja hrós
máttu leggja' af við skapara þinn.
Bera fjötra í fangelsið inn,
máske festast á rá.
En í eldsterkri von
mun þinn óborni son
sækja aflið og djarfleikann sinn
í þær rúnir, sem ristust á kinn
—þína raungrátnu brá.

Drúpir jörð, drúpir þjóð
eins og þegjandi ljóð,
sem ei þekkir sinn lifandi söng.
Sérhver vegur er vorissins spöng.
Heljar-vökin er auð.
Grætur Maríu barn
kaldan miskunar arn
og sitt musteri' í drápsvélaþröng.
Kristnin greipt er með glóandi töng.

Mörkin geymir hún rauð.
Sem í skrúfstykki sett,
er hún sorfin og slétt
líkt og suðustál morðtólin í.
Hennar Kristfé er kopar og blý.
Skálin Krismans er snauð.
Er hún menningin vor,
sem í Meistarans spor,
vildi miðast að landnámi því,
þar sem samúðar sólin skín hlý?
Eða' er sál hennar dauð? — — —

Alt vort andskota vald,
sem er afturför gjald
til að eyða og drepa og þjá.
Til þess altaf hinn auma að flá,
sem þó á ekki neitt;
sínum helkjapti hlær,
rekur hjarnfrystar klær
í hvern heimskingja fallinn sem lá,
þar sem hvíldina einfeldnin á,
eftir æfistarf þreytt.
Jafn vel lýðstjórnin sjálf
dýrkar lýsigullskálf.
fólkið líður alt sjáandi blint,
meðan bölvunar bálið er kynt
—það til brennunnar leitt. — —

Aðeins jafnréttið eitt
fær þann jöfurinn deytt
sem hvert jóð eins og þurs hefir gint.
Það fær böðlunum bjargráða hrint.
Lífið börnunum veitt.

Andi ókomins vors,
ganghljóð óstígins spors
vekur alþjóð um gjörvallan heim.
Sig hún brýtur úr blóðfjötrum þeim,
sem hvert barnið er læst.
Heimtar jafnkeypis rétt.
Eina ríkisins stétt,
þar sem risnan og samvinnan tveim
tekur höndunum saman um seim,
er með samafla fæst.—
Þegar sérgróðans völd
blindrar samkepni, öld
hefir sameinað alríkis mátt,
munu þjóðirnar hefja sig hátt,
komast himninum næst,
sem er samúðarbraut,
mannlífs sælasta skaut.
Það er samtvinning lífs í þann þátt,
sem er elskunnar samhugi og sátt.
Það er sálarlíf hæst!

# Vortrú

Lambagrassins ljósblóm
lýsa hverri þúfu
eins og eðalsteinar
út um holt og leir·
Skíni blómsins æska í augum,
andi vors í sjónum þínum,
ódauðleikans ekta gimsteinn
—eina blómið sem ei deyr.
Lambagras í hundrað faldri fegurð
flög og bruna-hrjóstur lífs þíns skrýddu.
Þú átt alt í önd ef líf þitt vakir—
alheims-vordýrð sál ei glatar meir.

Út þín sálin unga:
áttræð, níræð, tíræð.
Alt er ungt hjá anda
ef hann vors á þrá. —
Líkamsbyrðin aðeins eldist
eins og blómið þyngist, stækkar,
lífið sjálft er eilíf æska:
andinn, kjarninn, demant sá,
umgjörðum þótt ýmsum verði settur
aldrei missir fegurð, gildi, skærleik;
speglar alla ljóssins dýrðar liti
ljósið ef hann fær að skína á.

Ung er okkár stjarna,
eilíf-ný hver hreifing.
Altaf ungir söngvar,
Altaf harpa ný.
Ellibelgnum af sér kastar
árdag hvern, en mannlegt félag
hefir reyrt sig reipum olli,
rökkvað æfi mannheimi' í.
Lagahnyðjur, ótal kredduklafar,
kyrkja og níða æskufjörið, lífið,
speki andans, sérrétt sálarinnar—
sannleiksfrelsið hlekkja þungt við blý.

Út þitt æðsta' að finna —
eilíf von og gleði —
auðnan lífs þín eina
eftir bíður þér.
Öllu fleyg og öllum dýf þér
út í vorflóð nýrra strauma,
út í líf, sem aðeins sálin
orðlaust skilur, finnur, sér.
Burt og út frá öllum bókstafs lögum,
—eitrinu í mat og drykk hins gamla
—blásýrunni' í eftirmat þess unga
ef hann geyma' in brotnu' og spengdu ker.

Æska ástar ljúfa!
Andi vors og sólar!
Hvaðan komst þú hingað?
Hvert er heitið för?
Ljóss á vængjum leiðstu hingað,
Ljóss á vængjum burt þú svífur,
er þú hefir augnablikin
ára talið heims á skör. — —
Nýir hljómar nýrrar dagrenningar —
nýir geislar skerpa heyrn og sjónir.
Andans blys, sem stormar slökt ei geta
stígur hátt á loft úr næturvör.

Veit eg vel að heldur
vextinum til baka
fjörráð frelsi þínu
fyrr og líka nú:
Skóla nálín—skrælnuð fegurð,
skuggans hringferð, reikningstöflur,
og ið gamla guðsrifrildi
gatslitið í hverri trú.
Efnisdýrkun eyðir hátign lífsins.
Oftrú býr til þræl úr mannsins anda.
Svikamenning! Vík þú burt með vetri!
Vortrú lífsins anda—heil kom þú!

Út frá barnsins augum
ástargeislar vorsins
spegla spurning lífsins,
—spáin geymd er þar.
En frá vinar augum hlýjum
og frá djúpi spekinganna
árlog brenna ódauðleikans,
endurtendra kulnað skar.
Vakin sál, á alheim lífsins allan,
önd, sem finnur lífið, því ei glatar.
Endurnýjun alls á framleið þroskans
æðri og fegri—það er vorsins trú.

---

*Arnljotur B. Olsen*

# AUÐUNNARKVIÐA

# Auðunnarkviða vestfirzka

I.

Ársól upp er risin.
Íslenzk þjóð er mynduð,
öflug, sérstök, sjálfstæð,
sann-göfug og merk.
Norræn hreysti—vestræn vizka
vefst þar beztum megin-þáttum
inn í landsins eðlis taugar,
andans skapa snildarverk.
Noregsmanna hamarshagga þrumur—
hörpuslaga tónar drauma-þýðir,
fossahljómi, báls og ísa brestum
bindast, mynda þjóðljóð frjáls og sterk.

Grunntónn söngs og sagna
söguald̈ar vorrar
djúpur, ættlands ást er
Íslendingum hjá:
Ættarjarðarást í söngum,
anda, máli, verkum, frækleik,
frumhvöt dagfars innra, ytra
undir dul, sem falin lá.
Heiður lands var lífi og eignum stærri
—landið var þeim guð í æðstu merking.

Heimför öllum heimsins kostaboðum
hjartakærri þeim var tímum á.

Þá var siglt um sæinn,
sóttu Íslendingar
fremd til fjölda þjóða,
fundu löndin ný.
Það var eins og í þeim brytist
aflið til að vinna, sigra
—sigurmáttur, sem ei getur
sömu staðið sporum í.
Leitin út var lífið, fjörið sanna,
leitin inn varð sundrung—dauðameinið
—héraðsþrengslin. Þróttur stórláts frelsis
þoldi engin takmörk, bönd né kví.

---

Hátt mót himni gnæfa
hengifjöll að sævi,
síbjört sólarmegin,
sorta slær á bak.
Dýrðarljómi, djúpir skuggar,
dags og nætur töframyndir
umhorfs mynda augum fyrir,
æskufjöri löngun hlær
til að svífa upp frá aftans móðu
árdags til og kanna geima víða.—

Vestfirsk augu eftir dölum þröngum
út á hafið mæna vonarskær.

Eins og aðra drengi
út í heiminn langa,
Auðunn út vill sigla
Íslands ströndum frá.
Afla skyldi fjár og frama,
freista bæði' og leita gæfu.
Eftir lét hann aldnri móður
arð, sem dygði vetur þrjá.
Sjálfur stórt þótt hefði ei handa milli,
hlaut hann orðstír þann á Vesturfjörðum
að hann væri' að öllu góðu kendur.
—Allir fluttu' ei stærri kost um sjá.

Yfir vorsæ vona
vakir farmannsdraumur.
Blikar gull á bárum
brent við sólarmátt.
Lyftir sér úr landsins tengslum
ljósfleyg sál að morgunroða
þegar Rán og Röðull saman
ríkja yfir hverri átt.
Land var horfið. Augun þerð, því Ísland
á að njóta hvers hans sæmdarauka.
Sérhver taug er strengd og stilt í vonum
stormljóð við og báru hörpuslátt.

Fyrsta vetur var hann
vistaður á Mæri.
Ströndum Noregs stendur
staður þessi á.
Húsbóndinn um hafið flutti' hann,
hét sá Þórður stýrimaður,
Hafði Auðunn honum þjónað
heima fyr, nú launin þá.
Sumar eftir sigldu þeir til Grænlands,
settu þar upp skip og vetur annan
dvöldu í landi Eiríks Íslendingsins,
er var faðir Leifs, sem Vínland sá.

Aldrei óhugsandi
Íslendingur minnist
landnáms sinna lýða
löngu' í úthöf flædd.
Misti hann þar meginálfu,
meginland og bygðir, ættmenn.
—Flytur nú á frændleifð eins og
förukona mædd og hædd.— —
Þá áttu' ítök út í mörgum löndum
Íslendingar. Nú er breytt þeim lögum:
Útlendingum afbrögð náttúrunnar
eru seld og leigð og fjötrum vædd.

Alt það fé sem átti
Auðunn fyrir bjarndýr
lét, og kostgrip keypti,
komnu' úr norðanbyl.
Gersemi sú vel var vanin—
viturt, gæft og trygt sem hundur.
Auðunni það eftir fylgdi
og á mörgu kunni skil.
Næsta sumar Noregs til þeir halda.
Nú var leiðum skift. Til bús fór Þórður.
Auðunn fékk sér far til Víkur austur.
Fór með dýrið Óslóbæjar til.

Suður svo í Danmörk
Sveins til konungs Auðunn
hugðist halda og gefa
honum metið dýr.
Þá var agi mestur millum
mildinganna, Sveins og Haralds.
Noregssjóli sat í bænum
sögð var honum fréttin skýr:
Íslendingur einn með tamið bjarndýr
Ósló gisti, flutt af Grænlands ströndum,—
konungur hann kalla til sín lætur,
kemur Auðunn þar sem hilmir býr.

Konung vel hann kveður,
kveðju mjúkt var tekið:
—Haralds oftast hyggja
hlý var frænda þjóð.—
Gramur spyr: "Hvort áttu eigi
allspakt bjarndýr, metfé talið?"
Auðunn játti. Aftur sjóli
innir: "Viltu jöfnum sjóð
selja dýrið, sem þú fyrrum keyptir?"
Svarar hinn: "Það eigi vil eg, herra!"
"Viltu þá þér verðin tvö eg gefi?
Veit eg aleign þín þar saman stóð."

"Ei vil eg það, herra!"
Auðunn fylki svarar.
Vísir við hann mælir:
"Viltu gefa mér?"
"Það vil eg og eigi," sagði
Íslendingur. "Hvað viltu þá
af því gjöra," gylfi spurði.
Gegnir hinn og alhug tér:
"Það sem áður ætlað mér eg hefi,
áfram leið til Danmerkur að halda
suður, og það Sveini jöfur gefa."
Svarar tyggi skjótt, í orðum ber:

"Hvort mun þú ei hafa
heyrt um ófrið milli
lýða vorra' og landa
leið svo bönnuð er;
eða giftu ætlar þú þér
öllum meiri, svo þú náir
gersemina gram að færa,
garpar þá, sem nauðsyn ber
haldið fá ei hraklaust?" Auðunn svarar:
"Herra, það er nú á yðar valdi.
En því hefi' eg játað, sagt og svarað,
sem eg fyrri hafði ætlað mér."

Harri mælti: "Hví mun
helzt ei ráð þú farir
sem þér sjálfum líkar;
samt eg áskil það,
að þú komir aftur til mín,
er þú veginn ferð til baka.
Seg mér hversu Dana drottinn
dýrið launar. Máske að
gæfumaður sértu." Auðunn anzar:
"Yður því eg heita vil," og kvaddi.
Tók sér far er suður átti' að sigla,
síðan hélt með bjarndýr sitt af stað.

Sérhver saga þjóða;
sérhvert brot úr lífi
sýnir æ þann sannleik:
satt og rétt er mest.
Drenglund hrein, sem hræðist eigi
—hispurslaust síns réttar biður—
þótt við konung orðstað eigi
ávalt reynist drýgst og bezt.
Jafnvel þó að króka marga kunni
konungur, hann síður eigi metur
hugarđirfð og háttu frjálsa' og prúða,
hefð og titlum nafn þótt ei sé fest.

II.

Fley af Noregs fjörðum
fyrir byrnum sigldi
yfir drafnar djúpin
Danmörk nálgast brátt.
Blómsturskrúð og blikskygð sundin,
bjarkaraðir, iðgræn túnin
fagna auga ferðamannsins,
fuglar eyra kvaka dátt.
Höfn frá Auðunn hásumars í ljóma
hyggur sér sem beinast vegir liggja
konungs halda á fund og færa dýrið,
finnur þá af skotsilfri er smátt.

Allslaus uppi stendur
Auðunn nú með dýrið.
Átti engan pening,
engan þekkir mann.
Matar þeim hann báðum biður,
bjargast svo til ármanns konungs.
Áki vísis vistastjóri,
var að nafni. Auðunn hann
vista biður, svo þeir svelti eigi,
Sveini kvaðst hann ætla' að færa dýrið.
Selja matinn Áki kvaðst, en Auðunn
ekkert gjald í pússi sínum fann.

"Þótt að ekkert eigi
eg, þér mat að launa,
vildi eg gjarnan geta
gylfa dýrið fært.
Skaði' er ef svo góður gripur
gengur hungurbraut til dauða,"
Auðunn segir. Áki mælti:
"Eitt er ráð, sem þér er fært:
Ykkur fæði' eg alla leið til konungs
eignast þar á móti helming dýrsins.
Annars dýrið hlýtur hjá þér bana,
heldur lítið mun þá Sveini fært."

Þungur þessi kostur
þótti Íslendingi,
sá þó eigi annan
eins og komið var.
Skildi vel að vísir átti
vistir þær er Áki seldi.
Um þó kvarta ekki tjáði,
ármanns dómi hlýta bar:
Helming dýrsins hilmi Auðunn gæfi,
hinn parturinn eign skal vistastjórans.
—Síðar urðu samþjóð ráðsmanns völdin
sverð, er djúpt í þjóðarhjartað skar.

Einatt Íslendingar
ofvald konungsþræla
hlutu, án þess hilmir
hefði þar á sök.
Margur hefir meira goldið
mannníðingi' en fjárstofn hálfan;
frelsið selt og samvizkuna
—sálu týnt í ármanns vök.
Eigin þjóð á hræsibrekkur borið,
brotið niður lands síns helga dóma,
aðeins til þess öllu sínu' að glata
í þann svelg, er gleypir þjóðarrök.

Báðir halda bragnar
bersa með til konungs.
Áka fylkir fagnar,
ferðamanns til leit.
"Hver ert þú?" hann Auðunn innir.
"Eg er, herra," svar var gefið,
"íslenzkur, en Grænland gisti,
gnoð mig flutti' úr Noregssveit.
Ætlaði eg yður bjarndýr þetta,
aleign minni á Grænlandi það keypti.
Nú er kjörum háttað svo, að hungur
helming þess úr eigu minni sleit."

Síðan Auðunn segir
sjóla hversu ræddist
dýrs og matar málið
milli Áka' og hans.
"Er það satt?" spyr Áka jöfur.
Áki mælti: "Satt er herra!"
—'Ilt er þjóni illum trúa,'
upprann huga stjórnarans.
"Þig eg setti mikinn mann að gæta
minna búa," tjáir sjóli styggur,
"en þú tálmar för þess, er vill færa
fögnuð mér og gersemi til ranns.

"Útlendingur er hann
engu mér að kunnur,
gaf til eigu alla
og að veita sæmd.
Féndur honum friðland veittu
—flest mun ykkur Harald skilja—
samt þú honum sýndir refjar
—saga þín mun illa ræmd.—
En þér þakka' eg, Íslendingur, dýrið
eins og heilt þú gæfir—samt þó betur."—
—Ekki voru' af öllum Danasjólum
Íslendinga málin þann veg dæmd.—

"Maklegt myndi vera,"
mælti Sveinn, "þú Áki
týndir fé og fjöri,
farðu samt á brott
landrækur, en lífi haltu,
lát mig aldrei sjá þig framar."
—Fyrir ágirnd illa sína
óteljandi misti gott.
Kærleik með í konungsranni fríðum
konungur bauð Auðunn með sér dvelja.
Þakkar honum orð sín Íslendingur.
Allir honum sýna blíðuvott.

## III.

Skamma hríð með hilmi
hafði Auðunn dvalið
er hann fýsir fara
för suður til Róms.
Sveinn ei tálma sagðist þeirri
suðurgöngu vilja' og mikið
silfur honum fékk, svo fengi
fegurð skoðað páfadóms.
Rómferla í sveit hann Auðunn setur
—sjá sig bað á heimleið. Róm þeir náðu.
Borgin helga dýrðardraum þeim opnar
dauðramannabeina' og klukkuhljóms.

Aldrei íslendingur,
önd sem geymdi heila
suður þangað sótti
sáluhjálp né frið.—
Þjóð vor sjálf, ef sök er heima
sakarbætur ein má gefa.
—Himnavist og heljarmissir,
helga' ei brotin sampjóð við.—
Land vort sjálft í insta eðli geymir
öllum börnum sínum fyrirgefning
brotanna' allra—allra, nema einu:
ef er svikið landið—þjóðernið.

Auðunni' enda hefndist
ofmetnaði rómskum
krjúpa lágt.—Frá landvætt
langa hlaut hann neyð.
Tók hann sótt á heimleið harða,
hor og lega ramt hann þjáðu.
Bæði fé og förunautar
fóru sína gömlu leið.
Er hann hressist stafkarls-stíg hann tekur,
stirðfættur og allslaus matar biður.
Þannig loksins kollóttur og klæðlaus
konungstaðar til á páskum skreið.

Faranda varð frónskum
framandi hjá mönnum
erfitt oft um göngu,
óhæg lúkning gjalds.
Hefir tíðum manninn minkað
metnað nítt og frelsi þrælkað,
neðstan sett og síðförulan,
svikið traustið manndómsvalds—
skorturinn, sem fé og fararefni
fram að leggja bannar jafnt mót öðrum.
—Ei er fær í stafkarlsgerfi gömlu
gangan inn til þjóða réttarhalds.

Eigi þorði Auðunn
inn til Sveins að ganga
fyrir hrópi hirðar,
hélt sig skoti í;
hugðist þaðan hilmir finna
helgar tíðir nóns er sækti,
en er til kom ótti tötra
aftrar honum mest frá því.—
Fagur-búnir inni drengir drekka.
Dapur fær sér bita pílagrímur,
hímandi' undir höll með staf og skreppu,
hefja vill þó tilraun sína' á ný.

En sem kveldsöng klerka
konungur vill hlýða,
Auðunni' enn þá ver lízt
á hans drukna lið.
Þvert hann hljóp um brautu burtu,
buðlungsaugu glögg það skygna,
þykist sjá á svipnum mannsins
sig hann æski' að tala við.
Þegar heim úr kirkju konungurinn
kominn er, og hirð í sæti skipuð,
gekk hann út og spyr ef nær sé nokkur,
nú hann komi fram með enga bið.

Auðunn ósællegur
út úr skoti gengur,
féll að konungs fótum,
fylkir kendi' hann vart.
En sem veit hver er þar kominn
í hans hendi tók og bauð hann
velkominn; með liðsemd leiddi
ljósið inn í veizlubjart.
Hirðmannanna hlátra jöfur þaggar.
Hann til laugar færir—sjálfur þjónar.
Góðklæði' honum gaf og hjúkrun beztu.
—Getur breyzt á skammri stundu margt.

Eftir ógöngurnar
Auðunn fljótt tók heilsu.
Upprás vors og æsku
í hann lífið skóp.
Fjölmenninu vel hann vandist
varorður og fátalaður.
Átti hugsun æ því lengri,
orð sem skemmri vegu hljóp
Kyntur var hann vel af öllum mönnum,
vísir honum jafnan blíðu sýndi.
Nú þurfti' ekki Íslendingur lengur
óttast hirðar sköll og keskióp.

IV.

Vor er öllu yfir
angan loftið fyllir,
Fallast faðm í sólar
fögur Norðurlönd.
Dvergar opna dimma steina,
dropa sólargullsins tína,
úr þeim smíða eiða-hringa
ættarmen og þjóðabönd.
Bjartálfar úr bláu vorsins klæði
barni moldar hverju skikkjur sníða.
Feginhlátrar hamra- og skógarbúa
hljóma fram að yztu landsins strönd.

Þá rís efst í anda
útþrá snælenzks farmanns.
Sér hann sólu vaka
sumars heila nótt
yfir dölum, fjörðum, fjöllum,
frændum, vinum, móður sinni.—
Heimþrá instu eðlistauga
er til dýpstu ræktar sótt.
Það er ást, sem aldrei getur dáið
uppsprottin af frumrót lands og þjóðar.
Eindir lífs og ódauðleikinn sjálfur
einstaklings, er tengt þeim vaxtarþrótt.

Vordag einn er viðtal
vísir hafði' og Auðunn,
þengill þá svo mælir:
"Það er, Auðunn, satt,
eftir því eg int ei hefi
á hvern máta bezt þér hagi
dýr eg launi. Lízt mér að þú
lífið hirðar kjósir glatt,
með mér dveljir, mun eg þig að gjöra
mínum skutulsveini, þar með skal eg
virðing góða veita þér, svo gangir
veginn upp til metorðanna hratt."

Auðunn mælti: "Yðar
ágætt boð eg þakka,
herra, svo þann sóma
sem þér gjörið mér.
Hitt samt, út til Íslands fara,
er í skapi mér." Þá sagði
öðlingur: "Mér all mjög sýnist
undarlegt sé val hjá þér."
Auðunn svarar: "Ei má eg það vita
að í sæmd og nægtum hér eg dvelji
meðan heima megi stafkarlsvegu
móðir troða, björg því lokið er."

Þengill þessu svarar:
"Þetta vel er talað,
glögt og góðmannlega
—gæfumannsins svar.
Enda' er þetta einn sá hlutur,
er mér skal ei miður líka
þótt þú fýsist fara burtu
frá mér yfir svalan mar.
Ver nú með mér, Auðunn, áfram lengur
unz að skipin búast."—Svo hann gjörði.
—Hefir margur byrjar biðið lengur
—biðið þar til kistan varð hans far.

Auðunn eigi þáði
öðlingsboð, að þjóna
gylfa glæstra sala,
ganga hans í vörð.
Vissi' hann þá var frelsið farið,
fjöregg lífs og æðsta menning;
mundi líka móður sína,
mjallarhnjúk og spegilfjörð.
Dimt er augum gullskraut hárra halla
hugur þegar langt í burtu dvelur
—veit hann getur aldrei átt þar heima
—aldrei rætur fest í þeirri jörð.

En er áleið vorið
einn dag hilmir kallar
Auðunn út á bryggjur,
ótal skip þar sjá,
sem að eiga í að sigla
Austurveg, til Noregs, Saxlands,
Svíþjóðar, og bjuggu bragnar
bezt sem kunnu þau á lá.
Félagar að fögru skipi ganga,
fley það knör var mikill, seggir búa.
"Hversu lízt þér skipið?" sjóli segir.
Svarar Auðunn: "Það mér vel lízt á."

Drottinn Dana mælti:
"Dýr þér nú skal launa,
gnoð þér þessa gefa
góðum farmi með,
bezt sem haga þjóð mun þinni."
Þakkar Auðunn bezt sem kunni.
Enn leið stund. Þá út að sigla
albúið var skip með féð.
Sveinn konungur Auðunn enn til strandar
ofan með sér kveður, fram að skipi
því er sjóli honum gefið hafði,
hann svo talar við með rausnargeð:

"Af því, Íslendingur,
út þú kýst að fara
ei skal eg þig letja,
en það sagt var mér
ilt sé hafna á ykkar landi
öræfi og hætta skipum.
Brotni knör, svo fley og fé þitt
farist alt sem gaf eg þér
sézt þá lítt að Svein konung þú hefir
séð og honum færðir gersemina."
—Leðurhosu fulla af fríðu silfri
farmanninum rétti' úr höndum sér.

"Félaus ei með öllu
ertu," mælti sjóli,
"þessu' ef þú fær haldið
þótt þú brjótir skip.
Vera má svo enn að einnig
öllu þessu fé þú týnir.
Hvar sér þá að harra Dana
hafir fundið (nema í svip)?"
Konungur þá hring af hendi dregur
hringur sá var ágætur og mikill,
Auðunn gefur, og það við hann mælir
er hann tók við dýrstum kostagrip:

"Þótt svo illa yrði
að þú brytir skipið
týndir fé, ei félaus
ferðu samt á land,
ef þann hring á hendi berðu,
háttur er, það flestra manna
gull sitt á sér geyma, þegar
gnoðir manna verða strand.
Sjá má þá að Svein konunginn Úlfsson
séð og fundið hafir, stillir gefið
gersemina góðu, ef þú hringnum
getur haldið er þig ber á sand."

"Enn það eg vil leggja,"
ennfremur hann mælti,
"þér til ráðs að þú ei
þessum lógir hring
—því eg ann þér allvel njóta—
utan þess að göfgum manni
hefir þú það upp að unna
að þitt hljóti bezta þing,
honum gef þú hringinn; tignum mönnum
hæfir gjöf og eign sú. Far nú Auðunn
heill á braut."—Er hilmir Auðunn kveður
hlýrra orðum þakkar tilfinning.

V.

Sæ um sólu roðinn
seglum strengdum undir
Heimleið flýgur fleyið
fjær skín Danagrund.
Noregs til það leiðir leggur,
lætur Auðunn farmi' upp skipa.
Meira við nú þurfti' en þegar
þangað kom hann fyrstu stund.
Finnur sína frænda-þjóð að máli,
fréttir skjótt hvar konungurinn dvelur,
haldinorður heldur Auðunn þangað,
Haraldar án tafar komst á fund.

Konung vel hann kveður,
kveðju hlýtt er tekið.
"Seztu niður," sagði
sjóli, "og drekk þú hér."
Auðunn þáði. Þyrstur var hann.
Þegar spurði konungurinn:
"Hvað launaði Dana drottinn
dýrið, mesta hnossið, þér?"
"Því hann af mér þáði," mælti Auðunn,
"Þannig myndi' eg einnig launað hafa.
Hverju meira lét hann dýrið launað?"
landa-rögnir spyr en Auðunn tér:

"Sjóð til suðurgöngu
Sveinn mér gaf." En hilmir
aftur óðar svarar:
"Ýmsum hefir fé
Sveinn konungur selt í hendur,
sem þó enga gersemina
honum gáfu. Hvað er fleira?"
"Heiður bauð mér láta' í té:
gjöra mig að skutulsveini sínum,
sóma mikinn þar með til mín leggja,"
svarar Auðunn. Vísir tjáir: "Vel mælt
var það. Fleira' um laun þó get eg sé"

"Fríðan knör með farmi
fylkir gaf mér," mælir
Auðunn. Sjóli segir:
"Sömu launum með
einnig hefði eg þér goldið,
er þó þetta stórlegt framlag,
eða hlaustu önnur launin?"
"Enn mér gaf hann meira féð:
leðursokk af fríðu silfri fyltan,
félausan ei kvað mig því ef héldi' eg
þótt mitt skip á skerjum Íslands bryti;"
skýrði Auðuns frá ið hreina geð.

Þessu þengill svarar:
"Það var ágætlega
fyrirséð af fylki
—féör lund hans er.—
Eigi myndi eg það hafa,
Auðunn, gjört, því laus eg myndi
hafa þózt ef þér eg gæfi
—það sem líka bezt kom þér—:
mikla gnoð af góðum farmi hlaðna.
Gaf hann þér að launum nokkuð fleira?"
"Svo var, herra, víst," kvað Auðunn aftur,
"einnig hring þann sem á mund eg ber."

Ennfremur kvað Auðunn:
"Öðlingur það mælti,
fé og fley þótt týndist
flytti' eg ei í rann
allslaus, hring ef ætti' eg. Bað mig
ei að lóga, nema' eg hefði
tignum hal það upp að unna
að eg vildi gefa hann.
Nú hefi' eg þann fundið, fylkir hái;
frá mér gaztu tekið dýr og líf mitt,
en mig léztu þangað fara' í friði,
för sem hinna lögð var strangt í bann."

Hring af hendi dregur,
hilmi bauginn gefur.
Haraldur með hlýleik
hnossi móti tók.
Íslendingi góðar gjafir
gaf hann áður leiðir skildu.
—Oft þótt stórar eigur rýrði
eignir smærri stundum jók.—
Auðuns skeið úr fjörðum Noregs flýtur;
fjöllin rísa há að skutstafns baki;
framstafn bládjúp lofts og lagarmóða
lykur, eins og hugsjón stundarmók.

Hvað mun kærra' í heimi
hjarta Íslendingsins,
eftir æfintýrin
enduð þjóðum hjá,
en að sigla eigin knerri
út að næturlausum ströndum,
skærast þegar gæfugullið
glóir hverjum fingri á?
Aukna þekking ættarsjóði tengja
æfintýralandsins mesta' í heimi.
Vaxtast bezt mun fé og frami sona
frumrót lífs þars geymd um aldir lá.

Enda varð hann Auðunn
—íslenzk hermir saga—
mesti gæfumaður,
móður sinnar stoð.
Munu ei enn hans ættmót bera
Íslandsynir—þeir sem sigla?
Mun ei sagan seinni öldum
sömu flytja skilaboð?
—Jafnvel þótt þau gleymdust. Samt í sálum
sonarskyldur ræktar ljúfar vektu,
meðan andans eind og hugsun lifði
eilífð þess, er heimleið stefndi gnoð.

Inn í ættlands þætti
óteljandi spynnust
starfs og ræktar strengir
stefnt ef væri heim.
—Strengir, sem ei slitnað gætu,
strengir, öll sem nöfnin lifðu,
hjartataugar ofnir inn í
eilífð þjóðar starfs um geim.
—Íslenzk þjóð af alföður var kjörin
eilífð frá að göfga heim og bæta.
Norðurlönd hún hefir þegar hafið
—helgidóminn opnað löndum þeim.

Ársól Íslands bygðar!
yfir þjóð lát skína
lífsins almátt allan—
andans megin-þrótt.—
Verði æskan endurborin
æðra göfgi' ins forna máttar:
gimsteinninn, sem greyptur sé í
gull, í viljans eldmóð sótt.—
Heiður lands, sé lífi' og eignum stærri.
Landsins guð, sé trúin, vonin, ástin.
—Horfi sérhver Auðunnar með augum
út til ljóssins þess frá skapa-nótt.

Arnljótur B. Olson

# Sónhættir

(Í stafrofsröð).

## I. ÁFRAM.

Ef veiztu hvað þú vilt — ef ant þú heitt
  því verki' er krefst þín hugsjón, stattu þá
  sem bjargið fast, er brýtur straum sér á
og buga lát ei tilraun þína neitt. —
Ef lífi þínu' er til þess einhvers eytt,
  sem örvar, glæðir ljósið samtíð hjá,
  þótt lausa aura' og lönd þú hafir fá,
er lífsgjald þitt í félagssjóðinn greitt.
Því skaltu' ei hræðast heimskra manna sköll,
  né héraðsglópsins illmálgt kals og spott.
    Þær dægurflugur suða sig í hel.
En stefndu beint á hugans hæstu fjöll,
  þótt hálfnist ei sú leið, hún ber þess vott,
    ef áfram hélztu, að þú vildir vel.

## II. BLÓMGRESI.

Hvert blóm, sem verður vegi þínum á,
  er vinargjöf, sem lífið sendir þér.
  Hvert frækorn sáð, sem fagran þroska ber,
þér fögnuð veitir beði sínu hjá.
Sem lífið sprettur lægstu eining frá
  í leit til hæstu, þannig hagsæld fer.

Úr hugrenningum heimsbygð mynduð er.
Frá hjartablöðum eikur vexti ná.
Og ef þú blómgun ant — hver tómstund þín
í æsku vorsins sækir frið og ljós.
Þar sál þín vex og vitrast, frjáls og heið. —
Nú ljúfur heimur lífs og unaðs skín,
er laufblöð maí heilsa júní-rós. —
Eg geng með þér um garðinn — á þar leið.

## III. CANADA.

Eg hugsa oft um hve hún var fráls og kát,
og hlýtt var skautið — mjúkur nakinn steinn.
Og mér finst sonur hennar aðeins einn:
með ör og boga, fjaðrir, tjald og bát.
En ráðhöll, kauphöll: réttar fyrirsát,
og ræktun landsins: okurvegur beinn.
Í fjötur skatta flækt hver mær og sveinn,
svo framtíð skuldar það, sem nútíð át. — —
En ef hún nú, er Allra-manna-fold
og arfleitt hafa lögin Hvít að Rauð,
mér íslenzkt, rétt sem ensk, sú virðist mold,
sem óyrkt geymist hverjum farand-sauð.
Og hvar sem byggir lífs og látið hold,
sú lenda' og gröf, sé brot af heima auð.

## IV. DULDRAUMAR.

Hún gaf sig þér með allri sinni ást
og allri von og trú. En mannleg sál,
— þótt sameign verði' um sérhvert einkamál —
á sérrétt þann, er hyggju margoft brást. —
Hún gaf þér alt? Nei, aldrei öfl þau nást,
sem inst og dýpst í vitund tendra bál.
Því verður stundum reyndin reynslu tál
og rökin hulin skyggja' á þau sem sjást. —
Hún gaf þér alt sitt þekta — óþekt ei,
það enginn getur. Lífið fram það ber
sem árnar gullsand. Neminn í hann nær. —
Þú stóðst þar næst, en verður fjársins fjær
ef fanstu' ei meira' en gjöf, sem veittist þér.
Þá getur ást þér orðið brottsiglt fley.

## V. EINKAÓSK.

(Afmælisvísa).

Eg veit ei heyrist hjartans bænin mín,
fyrst hergnýr sjálfan páfann æpti' í kaf.
En það sem sprettur instu kendum af
með ástarþökk eg legg við brjóstin þín. — —
Hver lyga-aðsókn leiti' úr þinni sýn
svo langt í burt sem fjarst er meginhaf.
En vinarorð, sem heill þér hugur gaf,

sé hreinleik þínum ánægjunnar vín.
Svo heill með daginn! Hvert þitt æfispor
sé hugsun fegurð ný, á gömlu jörð,
sem sigling inn á Eyjafjörð um vor,
og albjört júnínótt við Skagafjörð.
Og sál þín finni sælu mesta þá,
að samúð ríki mannvitsgöfgi hjá.

## VI. FULL.

Vér heimtum stundum meiri munar-drykk
en mannþrek vort og gætni torgað fær.
En einmitt þá, er hrifning hörpu slær
inn hæsta streng, svo gleymist tímans dikk,
þér sjónum fyrir rofnar þokan þykk
og þú sérð óskalandið færast nær —
þá sprengir af sér háband hugsjón skær
og hefur sig til flugs í einum rykk.
En þegar geð, er aftur orðið jafnt —
hver æð og taug í réttar skorður feld,
í anda þínum geymist sýnin samt,
er sástu fyrr við leiðslu-kyngi ramt.
Og þangað sækja sýknir dagar eld,
og söguþræði fálát vökukveld.

## VII. GÆFURAUNIN.

Öll skepnan guðs. — Það líf sem daginn leit
og líka það, sem geislann aldrei sér
en finnur til — þá þrá í brjósti ber
að bæta og laga til í sjálfs síns reit.
Ei nauðsynlega í allri sinni sveit
því sveitarfélag til þess skyldast er!
Ei hugsa um þig, en handa sjálfum mér
eg heimta af drotni alt, sem bezt eg veit! —
Svo þetta er gæfuleitin — leiðin öll
hins litla sykurmaurs sem fíls og — manns,
frá lengstu norðri og syðst að suðri lands,
frá saurmokara upp til keisarans:
að breyta sínu eigin hreiðri í höll
og hafa sjálfur alt af stærstan völl.

## VIII. HJAÐNINGA-VÍG.

Það þekkjast engin örlög grimmri þeim,
sem árdag hvern úr friðarblundi sveik
hvern höggvinn dreng í hildar-bana-leik
til heljar nýrrar, kvelds í skuggageim.
Og þó í dag, á Hildur mestan heim
og heimtar hvern, sem veldur fífukveik
með Héðni eða Högna', að fara' á kreik

að höggva ver og föður mundum tveim. —
Nú skyldudrápið leitar lags við mann
  og lyddunafnið prýðir friðarskaut. —
Í djúpri þögn má horfa' á harmleik þann:
  að hugargöfgi' er stefnt á dauðans braut,
og þjóð, sem unun öldum saman fann
  í ást og friði, Kains blóðsekt hlaut.

## IX. Í HRUNDAR RÚSTIR.

Í hrundar rústir — brot úr sögu' og söng
  þú sækir dýpri þekking, gleggra vit,
  en æfin gaf með alt sitt flas og strit
og aldrei veitir skólaganga löng. —
Þau merki hæst, sem minning reisti' á stöng
  um menning alda, geyma' ei svikinn lit.
  Jón Ögmundsson á engin söguslit
og enn þá syrgir nafna hans' Líkaböng. — —
En sagan vestra sérhvert blekuð ár
  úr sjálfs vors penna' — að megin þáttum fróm. —
Mun fáni nokkur framtíð þar sem gljár?
  Já, fjalla andinn — Snælenzk jöklablóm.
En trúnagg vort og stökk um stjórnarflár,
  ei staðist fær hinn þunga alda dóm.

## X. INSTA RÖDDIN.

Hún heyrist stundum alt of, alt of seint
á æfi manns. Sem farfugl hausti á
loks heyra léti hljóð sín veik og smá,
sem hæstu söngvar fengu skýlt og leynt
alt vor og sumar. — Eyra ætíð beint
þær efstu raddir berast — haldi ná
á alhug vorum — æfi vorrar þrá,
svo instu rödd vér fáum sjaldan greint:
Vora' eigin sál, vorn hljómblæ himni frá,
sem hávær glaumur jarðar kvað í dá. —
Vort alt sem var og er og verður reynt.
Og fyr má landið langra skugga sjá,
en lífsins insta rödd oss vakni hjá,
ef lífið fyrir munn og maga', er treint.

## XI. JAFNRÉTTI.

Hún vakti heiminn kenningin um Krist.—
Hinn innra frið, þótt ytra fjötrum læst,
hver aðþrengd mannsál hlaut. Það veldi glæst
var bróðurelskan. Samúð fremst og fyrst.
Hinn minsti hlaut sem mesti, sömu vist.
Og þótt sá draumur hafi ei heimi ræst

á hundrað nítján árum — orðið stærst
á eilífð sjálfa' að framtíð, inst og yzt.
Og sjá! Í ógnum elds, sem brennir lönd,
býr dauði 'ins krýnda og auðga ægivalds,
í bilting margra ára' er elta frið.
Þá ytra jafnt sem innra losna bönd.
Hver þjóðeign rís úr ránsklóm afturhalds.
Sú jafnaðsstjórn býr Jesú opið hlið.

## XII. KÓLNUÐ VINÁTTA.

Sú kunnleið bezt, sem huga hálfan bar
til húsa þeirra', er aldrei grættu brár,
og geymdu yl og áttu hálfar þrár,
er ókunn nú sem töfrahöll í mar.
Og þó að húsum lögð sé leiðin þar,
hver lítil kvöldstund skilur eftir sár,
og drífa fýkur fyrir morguns-ár
og fyllir hvert það spor, sem stígið var. — —
Það sannleiksmark og samhald — hugarfar
og sömu einkamál, var kemba' í lár,
sem nú er klofin. Rokkur reynslunnar
hvors rífur helming til sín. Þráður smár
og stór, er spunninn ólíkt. — Er til svar,
á instu leiðum — nema þögul tár?

## XIII. LANDSNYTJAR.

Þótt þægilegt sé heim að flytja' í hlað
 úr hlýrri löndum margt, sem fengið er,
 þá alt sem geymir heimland handa þér,
er hollast, drýgst og bezt í allan stað.
Í framtíð lands eg aðeins óttast það
 hve ónóg þjóðarbúið virðist sér. —
 Í hólf og gólf er hlýrra torfið mér
en hús úr kvista-timbri fengnu að.
En hæst og bezt í huga mínum rís,
 sú huldukongsins borg, sem dreymt var til.
Sú klettahöll, sem dvergur átti' og dís
 og draumar einir bygðu' og kunnu' á skil.
Úr björgum lands míns bæinn helzt eg kýs,
 sá bergkastali lifði' öll stofuþil.

## XIV. MÓÐURMÁLIÐ.

Svo ljúft en hljómþýtt — hátt en rómblítt þó!
 Með hvert sitt ljóð, sem bergmáls-hljóð, við fall.
 Úr Hekluglóð — frá Geysi' er óður svall
og Gullfoss ljóma — kyngiómur hló. —
Vor fjallablær og sær við strönd er sló
 og stormaaldan kalda' er byrgði fjall —

Alt valdi hald á hljóði' er eyra gall
— það hlær mót skærum söng frá álft og ló. —
Vort mál, er stálið stilt við bál og hjarn,
þess strengir tengja gjörvöll Norðurlönd.
Vort sögumál, er sál vors lands og arn,
þeim söngvum enginn drengur glati úr önd.
Vort söngvamál, er sál þín, íslenzkt barn,
þess sagna-strengir fengust guðs úr hönd.

## XV. NORÐURLÖND.

Vort forna þjóðkyn bundu drottins bönd.
— þau bönd að fullu ekkert kóngsverð skar. —
þau Noreg, Svíþjóð, Finnland, Færeyjar,
vort Frón og Grænland, Danmörk — Norðurlönd.
það hyllir að eins undir fyrstu rönd
þessa unga sæludags er framtíð bar
á bak við grimt og blóðugt aldarfar
og bregða' á geislum yfir hverja strönd·
Hvert land skal frjálst, en yfirskriftin ein:
hvers annars hag að vernda bræðradug. — —
Vor Norðurheimur — drenglund há og hrein
skal heimi öllum lyfta' á æðra flug,
er norræn lundin, einræn, seig en sein
í samúð bindur mátt sinn einum hug.

## XVI. ÓLUKKA.

Þú líf þitt gefins, lesari minn, fékst
en lukku eigi, svo þú breyttir til.
Úr Draumaheimi dals við fossagil,
í dimmvið Sléttu' á undanhaldi vékst.
Og sá er mestur sauður bezt sem rekst.
— Ei sagt til þín — eg ei þig styggja vil.
En þekkja muntu þá, og kunna skil
á þeirri kynslóð, sem með straumnum hrekst,
og þann, sem langar, langar alt af heim
sitt ljósið bezta aftur finna og sjá,
en kemst ei undan örlögunum þeim,
sem útlegð batt hann hönd og fæti á,
er arf hann lét mót lukkuvon í seim,
og lagðist flatur alheimsþrælum hjá.

## XVII. OFURHEFNDIN.

Í kepni' og hrifsing landa, fjörs og fjár
hin framtakssama' en blinda vélaöld
síns metnað loksins hlaut in grimmu gjöld.
— Sjálf græðgin hræðist flóð, er mynda tár.
Hver eirpeningur dregur jafnvel dár
að dauðastunum þínum mannleg völd,

frá skothylkja og skrúfustykkjanna fjöld,
sem skifta verzlun fyrir blóðuð sár. —
Hvert hugvits kvint, er harmleiks vaxtað pund.
Hver himins geisli snýst í vítisbál.
Hér sérðu launin samkepninni frá!
Hver gullpeningur gildir nýja und.
Hver gleðibikar fulla eiturskál,
sem drekkast verður, samþjóð! Súpum á!

## XVIII. PARADÍS.

Sá sælustaður sagnar fornrar er,
þau saklaus ár, sem bernskan reynslu smá
í ljúfum draumi lifir, nýtur, á,
svo lengi og ábyrgð þung á dyr ei ber.
Ef val þá meiri varðleik gefur þér,
þitt vor í sumar breytist árum hjá
þú geymir Eden æsku þinni frá
til æfiloka móti fénda her.
Hún tengd er eðli' en engum vissum stað
— í austri þú, í suðri, vestri þið,
í norðri eg —, því vöggustokkinn við
býr vorheimssælan, lífsins yndi það,
sem meðfætt er, sem gjöf frá guði lands.
Öll gæfa sönn er bundin lögum hans.

## XIX. QUEBEC.

Eg lít þig enn þá eftir sextán ár
sem undra sýn, þú "Vínlands Gíbraltar!"
Á múra þína letrað letur var,
sem lesið aðeins geta tímans spár.
En söguspor þín sjást. — Þinn himinn blár,
er St. Lawrence í djúpi speglar þar,
er frelsis ímynd, æskuþjóð sem bar,
í ungum faðmi lands með bjartar þrár. —
Þú elzta borg hins unga, mikla lands
og aðalborgin fyrsta, kletti studd,
frá þér var bygt og braut þig kringum rudd
og barist til þín oft og stundum frekt,
af bárudrotnum, sem þinn sigurkranz
og sögu tóku' og gáfu "kongsins mekt."

## XX. RÉTTURINN.

Vér skiljum, máske, lítt þann lagaþráð,
sem löndin binda með sinn hversdagsmann,
en finnum til ef festumst vér í hann
sem flugan köngurváfu-sogtönn bráð.
Og sársaukinn frá særðri frelsisdáð,
sem sök frá instu vitund hvergi fann,

"Með hvaða rétti?" spyr, en spurul þann
þeir spöku láta horfa' á vald sitt skráð.
En spurning vakin: "Hvað er rétt?" hvern ref
á ríkisafrétt lambablóð, er saug,
mun draga fyrir dóm í heimasveit.
Þá svarið kemur gegnum þjark og þref
og þrengir sér um fólksins hverja taug
í sársauka, þó skorti skilningsleit.

## XXI. SÓLSETUR.

Eg sit í garði húsi mínu hjá
og horfi' er sól í fylgd við roðin ský
á bak við húsaburstir vestri í
og borgar-trjálund, sjónum hverfur frá.
Strax hljóðna raddir. Fölski fellur á
hvern fagur-skæran liteld. Jörðin hlý
fær kölduhroll, er nóttin enn á ný
frá nepjudyrum þrífur burtu slá.
Þær svölu bylgjur berast inn á við
til brjósts frá grund, en yfir húmsins lá
sjást rökkurskugga skipin sigling á
þótt skynjað fái' ei augað þeirra lið. —
Eg flyt mig inn, er eldur himins þver
að arni hjartans þeim, sem beztur er.

## XXII. TÝNDAR GYÐJUR.

Frá Júðum, kristnin, Jahve' og vængdýr öll
og jómfrú teymdi. — Mér þó grufl ei jók,
hver karlinn var, sem meyjar munað tók,
fyrst Marteinn frúna rak úr gyðju höll.
En karl-guðsdýrkun kirkjunnar var spjöll
á kvenlegt eðli — níðsla á bragði' og krók,
er norræn gyðja glæst um himinn ók
jöfn guði sínum yfir dali' og fjöll. —
Þær Iðunn, Sigyn, Freyja, Vár og Frigg
með frelsi, dirfð og glett, á sömu stund,
og göfga stilling: Norðurlanda lund,
sem Loka' er jafnt og Baldri' í eiðstaf trygg —
þeim sanna kvenrétt komu' í ykkar þrá,
mín kristnu fljóð! — Var skift til bóta þá?

## XXIII. ÚTFARARSALMURINN.

Þeir syngja lófsöng (anthem) yfir þér
á ensku máli, kirkju þinni í
með tónum þeim, sem minna á mjá og hví
svo mesti hátíðleikinn burtu fer.
Þá brýst fram "Hönd þín drottinn hlífi mér,"
í hjarta þínu. Barnstrú gömul-ný,

sem svæfist ei við svarfhljóðs þungan gný
en særist, viknar — biður fyrir sér.
Og þér finst eins og óþarflega hátt,
sé útför máls þíns sungin — fyrst í stað.
En vaninn helgi hljóðið mildar það,
mitt hærða barn. Það ómar bráðum lágt
í eyrum þínum. Æskan hljóðin sín
nú æfir við að syngja grafljóð þín.

## XXIV. "UPP UPP, MÍN SÁL!"

Rís upp vor sál úr sannleiks dauðaleit
og sæktu vitið er þér drottinn gaf
í arfinn mikla fyrir handan haf,
en hérlenzkunni vísa á eigin sveit.
Vort útibú, þótt ei í heimareit,
skal íslenzkt nægtarbúr, sem fylt sé af
þeim björtu ljósum—lýst þeim töfrastaf,
sem landið sjálft á íslenzk hjörtu reit:
Hver vikivaki og þjóðlag andlegt óf
í uppistöðu lífs þíns fyrirvaf.
Hvert æfintýrið gulls í námann gróf.
Hver gáta vakti hugsun þá, er svaf.
Hvert "sonar torrek" vængi vonar hóf.
Hvert vöggustef þér byr í seglið gaf.

## XXV. VITI.

Hví bjóstu Jahve, Víti vont til fyrst,
  en Veröld seinna, er þú mönnum gafst?
  því frá kemur eymdin öll, sem vafst
um ættlegg vorn á Jörð, og djúpt er rist.
Hví strax að hugsa fyrir vondri vist,
  þér veslings mannkind, föðurlífi' er svafst?
  Og ilt þú líka hefðir ei að hafst,
ef hefði' ei Skrattinn kent þér föðurlist.—
Ég skil það ei. En hitt eg veit svo vel
  að Víti þarf og gamla Höfðingjann,
sem frændur vorir Loka höfðu og Hel,
  því hnigna myndi dýrð um konung þann,
sem ábyrgð bæri og orsök væri að því,
sem ilt hans þegnar fremdu landi í.

## XXVI. WALT WHITMAN.

Þótt fjöldinn nefni flesta' á undan þér,
  og máske aldrei eigi með þér leið,
  er önd þín vitur, fyndin, spök og heið.
Þín frelsishugsjón manndóms boðskap ber.
Frá fæðing þinni liðin öldin er.
  En "Grasstrá" þín, sem gréru' und þjóðarmeið

ei geta þrifist fyrir yfirreið
og ærsla-traðki. Enginn blett þinn ver.
Þú Ameríku stærsti andinn ert,
en átt ei hljómsins fagra svanaklið,
né braglist þá, sem kýs sér vissan veg.
Um aldir geymdur uppá hillu' að sért'
en ei í hjarta—máttu hugnast við.—
Hví söngstu ekki sónhátt eins og ég!

## XXVII. X-GEISLINN.

Eg gleðst af hverjum geisla nýjum þeim,
sem myrkrið klýfur, opnar harðlæst hlið
að hugans útsýn, veitir þekking lið
að brjótast inn í lífsins huldarheim.—
Svo x-skin mörg í ókönnuðum geim
sem byrjað sé á A, en ö-ið við
vor augu'ei skygna. Lífið þolir bið,
þótt hver þess vera virðist dropi' í eim.
A komandi' öldum lýsa fleiri ljós
en líf nú þekkir—skýra fleira sjón
en holdsins meinsemd gegnum blóð og bein.
Vor geislafræði dvelur inst við ós
en úthaf sitt ei þekkir. Sál vor tjón
í myrkri líður. Vonin vonar ein.

## XXVIII. ÝFING.

Mörg íslenzk kongssál, konungdóm sinn lét
 mót kaupi skrítnu, fyrir vestan haf.—
 En Ibsen burtu eðlið norska gaf
svo alheimurinn lyfti því um fet. — — —
—Vort dugg'raband eg hlýgjarn mikils met.
 Það mætti—kannske—notast fyrirvaf
 í enskan tvist. — Ef hagleik ofið af
oss ágæt brekán væru' á landans flet. —
Svo vantar fleira' en s í okkar nafn.
 Vér allir heimtum dag fyr'r sokkaplögg.
Vér kveðum niður kvæði' og ræðusafn
 með konungsleyfi' um "sport" og uppboðshögg.
Og málum hvítan sérhvern svartan hrafn,
 og saumum mösurlauf í öll vor plögg.

## XXIX.—YNDI VORSINS.

Í sorgardjúpi sálin hrelda bað:
 "Ó, send mér, ljóssins faðir, nýjan þrótt!"
 Það hvíldi öllu yfir koldimm nótt.
Á æfi snemma haust tók fastan stað.
Og vetur hafði viðað hörmum að,
 en vikið jólum frá—sett nýár hljótt.—

Þá skýjum burt frá sólu svift var skjótt,
og sálin leit á himni yndi það,
sem opnar hliðin bláu. Ylhlýr blær,
sem æskudraumur, sveif um jörð og haf.
Hún fann að til sín svanasöngur skær'
var sunginn ljúfur. Hann sem vorið gaf
lét hana bergja á vorsins heilsuveig.
Þá vetur sorgar burt í djúp sitt hneig.

## XXX. ZARINN SÍÐASTI.

Af lýðsins guði, goð þú kjörinn varst.
Eg get ei láð þér þótt þú streittist við
því starfi' að halda—vildir vera' í frið
með valdið þitt og nafnið, sem þú barst,
því fjandlið þitt, var fjandlið guðs, sem skarst
úr feðra leik, mót helgum erfða sið.
Þótt upphlaupsmönnum ei þú veittir grið,
var öll þín hefndin guðleg, næst sem fjarst. —
—Fyrst breytist afskræmd ímynd skaparans.
Svo álitið á kjörnum þjónum hans.
Með fólkstrú hrundnri féll þín tign, þitt vald.
Með hverjum konung, keisara og zar,
er kollhlaup líður sökum vakningar
í lýðsins brjósti, eyðist afturhald.

## XXXI. ÞÖGN.

Eg spurði út í auðan geiminn, einn:
"Hvað ertu himinvíða, djúpa þögn?"
Eg framkallaði öll mín andans mögn
að endurkalla svar. Og harður steinn
á bergmál til, en þagnar sendisveinn,
er seinn til máls og þögull líkt og rögn.
En inst í sál eg átti gamla sögn
um anda mannsins—geisli fagur-hreinn:
"Frá guði' hann er, til guðs hann aftur fer."
Þá gat eg skilið strax hvað þögnin er.
Úr þögn kom sálin, þagnar flytur til.
Sú þögn er ríkir bak við æfispil,
er máttur sá, er moldin hreyfist af
í myndun lífs um sólkerfanna haf.

## XXXII. ÆSKUVORSHUGSJÓNIN.

Hver maður, félag, þjóð; hver tállaus trú—
hvert líf sem finnur sjálft sig—lífsjón á,
sem ljómar skærst og fegurst: ósk og spá
og andans hugsjón—helgimyndin sú,
sem stefnt er að. Hvert stefnir, vinur, þú?
Hver er sú sýn, er ljómar heið og há

í huga þínum, bernskumorgni frá?
Er eldleg tunga andans sloknuð nú?
Á hverju vori vakni hún hjá þér!
Þín æskuhugsjón. Fegurst fyrirmynd
'þess fullkomleika' er sál þín hugsað fær
og skapar, sér og veit að vexti nær
á vorum seinna. — Stærsta höfuðsynd
er gleymska sú, er burtu mynd þá ber.

## XXXIII.—ÖLL TALIN SPOR.

Öll talin spor. Öll töluð vinarorð.
Með harminn situr sifjaliðið hans,
en sökina' alla gaf til skaparans,
er fjendur landsins frömdu' á honum morð.—
Það mælti: "Ei skal höggva!" Hátt um storð,
þá gullu tryldir hæðnishlátrar manns,
sem hafði forsvarsorð þess vesla lands,
sem sjálfur hafði' hann borið fyrir borð.
En sár því ný og gömul svíða á
frá sverði Snorra banamanns, og því,
er drenginn feldi. Hann, sem bjó því hjá
og hafði lítið starfað veröld í,
en átti þess að erfa löngum, þor
og áform stærst við hinzt þess gengin spor.

## XXXIV. AMEN.

"Svo verði það!" Hér set eg púnkt og prik,
  því píslarsálmum stafrofs lokið er.
  En hvern, sem söng þá sónhætti með mér
eg sæmi þökk. Gef hinum langa-strik.——
Hver hugsun smá, var unnin augnablik
  úr efni því, sem hversdagslíf fram ber—
  úr myndum dags hjá mér og líka þér
og minjum þeim, er hylur áraryk.
En rím og hljómur hugsun stundum batt
  í háband það, sem spretti dregur úr.
  Og sumt er máske draumamál í dúr,
sem dagrenningar aldrei ljós sér glatt. —
  Ef þakklát samtíð sér hvar brestur er,
  með systurhönd eg veit hún bendir mér!

*Arnljótur B. Olson*

# Leiðréttingar

Sökum veikinda þess, er sá um prófarkalesturinn á kveri þessu, urðu fleiri villur en skyldi. Þykir réttara, þótt seint sé, að setja hér helztu leiðréttingar við það sem misprentast hefir:

13. bls. 4 línu: Frójangar les: Frjóangar
15. bls. 16. línu: nýjum les: hlýjum
20. bls. 14. línu: eirum les: eyrum
22. bls. 4. línu: skildi les: skyldi
24. bls. 11. línu: breitt les: breytt
26. bls. 22. línu: okarann reitir les: okrarann reytir.
28. bls. 1. línu: Leið frelsið sem suðursins lofthlýja straum les: ó, leið til vor frelsið, sem lofthlýjan straum
29. bls. 1. línu: Okomið les: ókomið
40. bls. 18. línu: Sorta slær á bak les: sorta' að baki slær
48. bls. 8. línu: hlýta les: hlíta
56. bls. 10. línu: skutulsveini les: skutilsveini og á 62. bls. 9. línu
57. bls. 11. línu og 12. línu: biðið les: beðið
62. bls. 19, línu: hlaustu les: hlauztu
70. bls. 9. línu: fráls les: frjáls, og 19. línu: íslenzkt les: íslenzk.
76. bls. 5. línu: bilting les: bylting
77. bls. 6. línu: ónóg les: ónógt, og 16. línu: Móðurmalið les: Móðurmálið
80. bls. 1. línu: skrúfustykkjanna les: skrúfstykkjanna, og 2. línu: blóðuð les: blóðug og 13. línu: varðleik les: verðleik
85. bls. 3. línu: því frá les: því frá því
86. bls. 14. línu: en ð-ið les: ent ð-ið
90. bls. 21. línu: löngum les: löngun

Aðra smá-ósamræmi í lesmerkjum og fleira eru menn vinsamlega beðnir að lesa í málið.

